


III. Winnipeg, Man. Nr. 12.

## AFSÖKUN.

Vér viljum biðja kaupendur vora að virða á betri veg, hve lengi hefir dregist með útkomu á Dagsbrún. Það hefir að engu leyti verið skuld útgefendanna eða ritstjórans, heldur hefir það stafað af veikindum eins prentarans þar sem blaðið er prentað, og var ekki hægt að fá mann í hans stað fyr en nú.

Janúar og Febrúar-blöðunum verður komið út svo fljótt sem unt er, og skulum vér reyna af fremsta megni að sjá um, að Dagsbrún komi framvegis út reglulega í hverjum mánuði, eins og til er ætlast. ÚTGÁFUNEFNDIN.

## GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

Framh.

Þá getur séra Friðrik þess, að Davíð konungur hafi verið "þyrnir í augum hinna vantrúuðu í Ísrael og að hann sé enn þyrnir í augum mótstöðnmanna kristindómsins." Hann bendir á það, að vér séum að hæðast að því, að hann sé kallaður í ritninguuni: "maðurinn eftir guðs hjarta." Þetta byggist á því, sem höf. fyrirlestursins tekur fram, þar sem hann getur þess, að Samúel hafi tilkynt Sál, að konungdómurinn yrði frá honum tekinn og sagt honum, að drottinn hefði útvalið sér í hans stað annan mann eftir hjarta sínu.

En gætum nú að; ef að vér viljum fá hugmynd um, hvað það

er að vera "maður eftir hjarta guðs þessa," er Gyðingar dyrkuðu forðum og hinir "rétt-trúuðu" dýrka enn, þá getum vér það nokkuð, ef að vér leitum upp hvað það var, sem Samúel fyrir guðs hönd helst fann að Sál, ef að vér gætum að sökum þeim, sem komu honum til þess að víkja Sál af konungsstóli Gyðinga. Það er talað um þetta í 1. Samúels bók, 13. kap. og aftur í 15. kap. Á því getum vér best séð, hvort vér höfum góðar ástæður til þess, að halda honum fram sem fyrirmynd mannlegs siðgæðis.

Uppruninn til þess, að Samúel fór að snúast á móti Sál konungi er auðsær af 13. kap. Þar er sagt að Filistear hafi safnast saman til herfarar á móti Gyðingum: 30 þúsund vagnar og sex þúsund reiðmenn. Þegar Gyðingar verða varir við herhlaup þetta, þá segir ritningin, að fólkið hafi orðið svo hrætt, að það hafi falið sig í hellrum og þyrnirunnum og í giljum og turnum og gryfjum. En Sál konungur verður þó ekki hræddur, heldur safnar að sér liði sem hann getur, og setur herbúðir sínar í Gilgal og vestan við Jórdan, þeim megin sem Filistea var von. Hefir hann þó óefað átt fult í fangi með að halda mönnum sínum, þar sem óttinn við Filisteann hafði svo gagntekið þjóðina og einlægt gekk straumur fólksins, er flúði um herbúðir hans og austur yfir ána Jórdan. Nú er þess að gæta, að Sál þurfti að bíða komu Samúels, svo að hann fórnaði fyrir sigri og blessaði í nafni guðs konunginn og herliðið. Samúel hefir gert Sál konungi orð og sagt honum að bíða sín, og tiltekið tíma þann, er hann skyldi koma Sál bíður svo þarna í sjö daga, en ekki kemur Samúel, fólkið er órótt og konungur hefir víst séð, að hann gat ekki haldið því, og svo ræðst hann í það, að hann fórnar sjálfur brennifórn og þakkarfórn. Að því búnu kemur Samúel. Þykir honum konungur vera farinn að seilast inn í sinn verkahring, því að það var Samúel, sem bar að fórna. Hann reiðist því ákaflega við Sál og hótar honum reiði guðs. Hann segir, að ef að Sál hefði ekki gjört þetta, þá mundi guð einmitt nú hafa "staðfest konungdóm hans yfir Ísrael að eilífu." En fyrst hann braut svona, þá sé drottinn nú farinn að leita að öðrum manni til þess að gefa honum konungdóminn,

Þetta var nú fyrsta ástæðan til þess að Samúel snérist á móti Sál konungi, en svo kom önnur seinna.

Þeir eru víst margir sem eru kunnugir sögunni, þegar Samúel í guðs nafni og fyrir guðs hönd býður Sál, að fara á móti Amealkít- og drepa þá alla, svo ég fer fljótt yfir hana.

Samúel kemur til Sáls og segir honum, að fara herferð á móti

Amalekítum. "Svo segir drottinn alsherjar: Legg þú nú af stað í orustu við Amalek og eyð öllu, sem honum tilheyrir, og þú skalt ekki hlífa honum, og drep þú svo mann sem konu, svo barn sem brjóstmylking, svo uxa sem sauð, svo úlfalda sem asna." Þetta var nú að vera maðurinn eftir guðs hjarta!!! Sál fer og vinnur sigur og drepur drjúgum menn og skepnur. Þó er hann ekki eins grimmur og Samúel, því að hann hlífir Agag konungi, er hann hefir tekið höndum, og hinu besta af nautum og sauðum. Þegar Samúel verður þessa var, verður hann ákaflega reiður. Veður upp á Sál konung og hellir yfir hann fúkyrðum. Segir hann, að drottinn hafi talað við sig í nótt og boðið sér, að kunngera Sál það, að guð hafi nú burt snarað honum. Sál konungi líst ekki á blikuna og vill fara að blíðka Samúel, en það dugir ekki. Hann er svo reiður að hann veður að Agag og höggur hann í sundur fyrir drottni í Gilgal og var Agag þó í griðum. Þarna sér maður nú, fyrir hvað Sál var "burtu snarað frá guði." Hann var ekki maður eftir guðs hjarta, af því, að hann vildi ekki drepa og myrða eins og prestunum líkaði. Nú fer drottinn að leita eftir manni í mótsetningu við Sál, eftir manni, sem fús er á að drepa og myrða, eftir manni, með minni mannúð og kærleika, eftir manni, sem ekki var hætt við að kynni að komast við og sýna meðaumkun sigruðum óvin; og með Samúels hjálp tókst það. Þeir fundu manninn Davíð Isaison. Þar kom "maðurinn eftir guðs hjarta." Það er oft minst á Davíð og verk hans, svo að hann er mörgum kunnur. Menn vita, að hann var ræningjaforingi, kvennamaður hinn mesti, slunginn og slægvitur, svikull, grimmur og samvizkulítill, en mikið var í honum.

Svo fer höfundur fyrirlestursins að verja það, að önnur eins persóna og Davíð gamli skuli finnast í gamlatestamentinu. Segir hann, að ritningin dragi ekki úr glæpum hans.— Það var nú annaðhvort, þó að reynt væri að segja eitthvað satt frá sögulegri persónu. — En í þessu sambandi setur svo höf. fram þessa frábæra staðhæfingu, á bls. 59: "Það er ef til vill engin sterkari sönnun til fyrir guðlegum uppruna gamlatestamentisins, en aðrar eins æfisögur og Davíðs."

Ef að guðdómlegur innblástur ritningarinnar á að hvíla á þessu og öðru eins sem fótstykkjum, þá fer mér nú ekki að lítast á. Ef að einhver kæmi fram og færi að rita sögu, væri það, að söguhetjan væri erkifantur sönnun fyrir því, að sagan væri guðdómlega sönn, hvert eitt einasta orð? Eða tökum nú Hrólfasögurnar, t. d. riddarasöguna íslenzku um Gönguhrólf. Er það nokkur sönnun

fyrir því, að hún sé bókstaflega sönn, hvert einasta orð, að hún segir frá svikaranum og löðurmenninu Vilhjálmi og fólskuverkum Gríms Ægis? En ef að á að fara að halda því fram, að aðrar eins æfisögur og æfisaga Davíðs, sé sönnun fyrir guðdómlegum innblæstri ritningarinnar, þá má alt að einu segja, að frásögnin um Grím Ægir í Hrólfasögunum, sé guðdómleg sönnun fyrir áreiðanleik þeirra.

Svo fer höfundurinn að færa sig upp á skaftið, því að hann segir: "Guði sé lof fyrir Davíð, þótt stórsyndugur væri." Þetta og annað eins getum vér ekki felt oss við. Hefði Davíð konungur verið góður maður, þá hefði verið rétt að segja þetta um hann Hefði hann verið meinleysingi, sem menn kalla, þá hefði það verið vel þolandi. En, þegar maður tekur manninn eins og hann var, eins og hann er látinn koma fram í ritningunni, þá virðist það óhæfa ein, að fara þessum orðum um hann. Hann er stór og mikil persóna, Davíð, þeir munu fáir neita því, en þegar menn leggja alt saman hjá honum, lesti og kosti, þá verður svipurinn á mynd hans þess leiðis, að menn mundu miklu fremur vilja taka einhvern annan til þess að lofa guð fyrir; svo sem t. d. heiðingja eins og Sokrates eða Buddha, eða þá einhvern, sem vér mætum á vegi vorum, og sem hrindir oss ekki frá sér með annari eins æfisögu og Davíðs. — Vér vitum hve voðalegt var framferði rannsóknarréttarins á miðöldunum, sem brendi menn þúsundum saman fyrir trú sína, kvaldi þá og píndi öllum upphugsanlegum kvölum. Hefir það athæfi jafnan verið djöfullegt kallað og það jafnvel af mörgum trúbræðrum þeirra kaþólskum. Og þó var það alt samkvæmt vilja kennilýðsins, eins og framferði Davíðs. En eigum vér nú að segja: guði sé lof fyrir rannsóknarréttinn? Eigum vér að segja: guði sé lof fyrir böðlana, morðingjana, hræsnarana, lygarana, ræningjana, spillvirkjana, fyralla þá, sem vaðið hafa í blóði saklausra manna, fyrír harðstjórana og kúgarana?

En nú sjá þeir þetta klerkarnir og kyrkjumennirnir, að þeim er hætt við að fá þetta og annað eins framan í sig, ef að þeir fara að syngja Davíð gamla og öðrum eins körlum lof og dýrð, og þess vegna hafa þeir líka smugu, sem þeir ætla sér að skjótast í. Þeir segja: Þetta er voðalegur munnsöfnuður hjá yður trúlausu mönnunum; hafið þér virkilega ekki tekið eftir því, hvernig Davíð iðraðist glæpa sinna og afbrota? En er það þá rétt og getur maður sá verið heilagur og eftir guðs hjarta, sem fremur alls konar skammastryk alla sína æfi, ef að hann að eins iðrast fáein augnablik fyrir andlát sitt? Er iðrun nægileg til að gera manninn saklausan í guðs

augum? Hefði það ekki verið betra, ef að maðurinn hefði aldrei unnið þessi vondu verk og aldrei þurft að iðrast? Skýrslur um glæpamenn sýna það, að fjöldinn af þeim iðrast, en eru þeir með því búnir að bæta fyrir glæpi sína? Vér getum ekki trúað því. Vér höfum stundum vitað greinda menn að öðru leyti, sem hafa viljað ganga undir frjálsum fána í trúmálum, hafa þessa rammskökku skoðun, að fyrir alt sé bætt með iðrun að eins. En eftir því er augsýnilega best, að vera sem mestur fanturinn, drýgja sem flest skammastrykin, því að þá hefir maður svo ákaflega mikið að iðrast fyrir; hver veit nema maður geti slagað nokkuð upp í hinn hásæla, dýrðlega Davíð konung, manninn eftir guðs hjarta!!

Þessi iðrunarhugmynd kyrkjunnar kemur ljóslega fram viðvíkjandi glæpamönnum. Þegar á að fara að lífláta einhvern fantinn og morðingjann, þá fylgja honum vanalega klerkar með biblíur og bænabækur í höndum; þeir hafa setið yfir honum síðustu stundirnar til þess, að fullvissa hann um, að ef að hann iðrist, þá muni hann þegar eftir andlátið ganga í faðm Abrahams, verða aðnjótandi sælu himnaríkis strax eftir aftökuna. Brot hans séu öll afplánuð, Kristur hafi borið þau upp á krossinn og pínst fyrir þau, og ef að hann að eins iðrist, þá öðlist hann alla forþénustu Krists; þá sé alt hvítþvegið. Þess vegna er það, að varla er nokkur sá kristinn ódáðamaðnr tekinn af lífi, að ekki sé hann viss um dýrðina og sæluna undir eins og hann deyr. Eftir kyrkjunnar hugmyndum deyr hann kristilegar en margur maðurinn annar, sem alla æfi hefir vandað framferði sitt, sem best hann hefir getað. En fyrst og fremst er þetta argasta hugsunarvilla og vitleysa, og svo svo virðist það hins vegar ekki miða til þess, að bæta siðferði, heldur hlýtur það að spilla því.



# PRÓFESSOR HUXLEY.

Í riti sínu: "The Struggle for existence" (Baráttan fyrir tilverunni), segir Huxley, þessi nafnfrægi vísindamaður:

"Það er langt frá því, að maður geti ráðið það af nokkru, að hinir fyrstu menn hafi verið fremur siðferðislega hugsandi, en úlfurinn eða dýrin í skóginum.

Þó að menjar manna á undan sögutímanum séu ófullkomnar, þá færa þær þó skýrar og nægar sannanir fyrir því, að mennirnir hafa verið á mjög lágu stigi villimanna þúsundum ára áður en hin

fyrsta menning hófst, er vér höfum nokkur kynni af. Þeir áttu í sífeldu stríði við óvini sína og keppinauta, þeir drápu og lifðu á dýrum þeim og mönnum, sem veikari voru og ókænni en þeir sjálfir. Þeir fæddust, æxluðust og dóu í þúsundir mannsaldra, innan um mammothdýrin, úruxana, ljónin og hýenurnar og lifðu á líkan hátt og þessi dýr. Og það er engin ástæða til þess að víta þá fyrir það í siðferðislegu tilliti, fremur en hin dýrin, sem loðnari voru og gengu með höfuð lútandi að jörðu. Eins og því var varið, hvað dýrin snerti, eins var mönnunum varið. Hinir veikari og einfaldari urðu undir, en hinir, sem voru seigari og kænni, voru best lagaðir til að heyja baráttu þessa. Þeir lifðu af, þótt þeir væru engu betri í öðru tilliti. Lífið var látlaus orusta. Þar barðist hver við annan, að undanteknum þeim, sem tengdir voru hjúskapar eða skyldleikaböndum, og stóðu þessi bönd þó sjaldan nema um stundarsakir. Mennirnir flæktust þá með hinum öðrum dýrum í framrásarstraumnum og hélt hver uppi höfðinu sem best mátti hann og hugsaði hvorki um það, hvort þeir stefndu eða hvaðan þeir væru komnir."

Þessi frásögn vitringsins Huxley's kemur ekki vel heim við hinn syndlausa Adam og Evu, er höfðu háleita þekkingu, sælurikan sálarfrið og ódauðlegt líkamseðli. En hver getur líka verið að dragnast með þessa röngu, eldgömlu frásögu, nema prestarnir og fylgjendur þeirra, sem stara í sífellu á kraftaverk, biblíu og eilíft víti, eins og tröll á heiðríkju.



# KENNINGIN UM GUÐDÓM KRISTS.



(Sannanir með og móti. Sannanir með eru auðkendar með rómverskum tölum ; en mótsannanir með venjulegum tölum).

Framhald.

XIII. Sönnunin fyrir guðdómi Krists á að vera sú, er sagt er í Fil, bréfi, 2,6: "sem þó hann væri í guðs mynd miklaðist ekki af því, að hann var guði líkur."

13. Þó að það sé nú sitt hvað að vera líkur einhverjum, og það, að vera hið sama og þessi persóna, sem maður er líkur, þá mætti nú ef til vill færa þetta til sönnunar fyrir guðdómi Krists, ef að ekki væri þessi óhrekjanlegi framburður Krists sjálfs: "Faðirinn er mér meiri. Sá framburður gerir þessar og þvílíkar setningar, sem verið er að tína upp eftir postulana, alveg að engu, einkum

þegar þær eru þá ekki sterkari, en þessar, sem hér hefir getið verið, og munu þó þær allra sterkustu þegar taldar.

XIV· Enn segja prestar: "Í honum býr öll fylling guðdómsins líkamlega" (nefnil. Kristi).

14. Þá er nú fyrst að útskýra þessa fyllingu guðdómsins, en með því að enginn hefir guð séð, þá verður það kannske örðugra en sumir hyggja, og svo er hér talað um, að hún búi í Kristi líkamlega, en ekki andlega. En þó að maður taki þetta nú alt gott og gilt, þá rekur að því að til eru fleiri staðir, sem tala um þessa fyllingu eður fullkomnun. Í Efesusbréfinu er talað um, að menn fullkomnist í allri fullkomnun guðs (ætti eftir ensku biblíunni að vera: fyllingu), og þá gefur þessi staður Kristi ekki meiri tign, en hverjum öðrum manni.

XV. Þá segja prestar, að Kristur sé allstaðar nálægur, alvitur, og almáttugur, og færa til þess staði úr guðspjöllunum.

15. Að segja annað eins og þetta er svo mikill barnaskapur, að því er naumast gaumur gefandi. Hvað vissu aumingja postularnir um þetta, jafn fáfróðir menn og þeir voru? Menn sem lítið þektu til út fyrir Gyðingaland. Ætli Kristur hafi verið allstaðar nálægur, þegar hann var í móðurkviði, eða við fæðingu sína eða við krossfestinguna, allstaðar nálægur í öllum álfum heims, í hverjum húskofa, hjá hverjum manni? Ætli að hann hafi verið krossfestur á öllum hnöttum, í öllum sólkerfum, á einum og sama tíma, eða hvað? Eða er hann almáttugur að frelsa kyrkju sína? Eða vill hann það ekki? Því enn þá á hún örðugt uppdráttar, en séu orðin tekin eins óákveðin og postularnir oft tala, þá fellur þetta um sjálft sig. Þeir segja sumstaðar að menn eigi að gera meiri verk en Kristur (Jóh. 14,2) og að menn eigi að verða honum líkir.

XVI. Kristur er orðinn englunum þeim mun æðri, sem hann hefir þeim háleitari tign öðlast (Hebr. 1,4).

16. En þetta kemur þó ekki vel heim við það, sem hinn sampostuli segir rétt á eftir (Hebr. 2,7 og 9). Þar segir postulinn, að hann hafi verið gerður englunum óæðri. En þar á ofan bætist það, að þessir guðfræðingar og postular hafa aldrei séð neina engla, og vita því ekkert um þá, hafa enga hugmynd um það hvernig þeir líta út, og meira að segja vita ekkert hvort þeir eru til eða ekki, og jafnvel merkir guðfræðingar, eins og Martensen Sjálandsbyskup, vilja helzt snúa sig út úr öllum þessum englasögum.

XVII. Þá færa þeir það til sönnunar fyrir guðdómi Krists, að hann segi sjálfur, að "sér sé alt vald gefið á himni og jörðu."

18. En hver er nú kominn til að sanna þetta? Það má ósköp vel slá þessu fram, en það er örðugra að sanna það. Hver er kominn til að sanna það, að Kristi sé gefið alt vald á himni? Ég held enginn. En þó ekki væri nú farið fram á meira en að sanna það, að honum væri gefið alt vald á jörðu þessari, ætli það færi ekki að vandast málið fyrir þeim sem ættu að gera það? Mundi hinn göfugi og elskulegi Kristur ekki gjarnan hafa viljað leiða mannkynið fram á braut menningar og siðgæðis? Mundi hann ekki gjarnan hafa viljað fylla sjálfa trúboða sína meiri kærleika, en þeir stundum sýndu? Mundi hann ekki stundum hafa viljað hefta morðin og drápin og brennurnar? Mundi hann ekki stundum hafa viljað þruma á móti boðum rannsóknarréttarins? Eða mundi hann ekki stundum hafa viljað hefta styrjaldir og blóðsúthellingar þjóðanna? Er það nokkuð líklegt, að hann hefði ekki notað þetta vald sitt, ef að hann hefði haft það?

En nú bætist það við, að honum var gefið það, hann hafði það ekki í fyrstu. Það var einhver annar meiri en hann, sem hafði það, og þá sýnir þessi setning einmitt það og sannar, að hann var ekki guð. Þeir eru og fleiri en Kristur, sem standa fastlega á því, að sér sé gefið alt vald á jörðu þessari og jafnvel á himni að nokkru leyti líka. Það eru páfarnir í Róm. En engum kemur til hugar að kalla þá guði, síst allra prótestöntum. Og þó slá þeir um sig með þessu.

Þegar menn nú renna augum yfir þessa og aðra eins staði, þar sem það er svo auðsætt, að ritningin sjálf kennir ekki guðdóm Krists, eða ef hún ætlar að fara að tileinka honum einn eða annan guðdómlegan eiginlegleika, þá lendir hún í þær ógöngur, að meðmælendur skoðana þessara um guðdóm Krists, verða að kasta öllu viti og skynsemi fyrir borð, þeir standa uppi flettir vitinu og geta ekki annað en hrópað: guðlast! guðlast! Er það ekki undarlegt, hvað menn ganga lengi í tjóðurbandi þeirra? Eða verða menn nokkuð betri menn fyrir það, þó menn séu að reyna að fótumtroða hinn dýrmætasta hæfileika, sem guð hefir gefið manni, skynsemina, eða ætla þeir virkilega að guðsdýrkun þeirra sé guði nokkuð kærkomnari fyrir það, að þeir eru að reyna að neyða sig til að trúa því, sem hið bezta og göfugasta í þeim segir þeim að sé að eins hindurvitni? Geta menn ekki séð það, að ef að guð gefur þeim nokkurn gaum, þá hlýtur hann að hafa óbeit á þeim fyrir hræsni þeirra og heigulskap.



# RÆÐA.

Flutt á nýjársdag 1895

Eftir séra M. J. Skaptason.

---

Vér stöndum nú hér á tímamótum, kæru vinir; að baki oss liggur gamla árið, með öllum þess atburðum, öllum þess sorgum, öllum þess gleðistundum, en framundan oss liggur ókomni tíminn; vér eins og stöndum fyrir fortjaldi, er vér ekki sjáum í gegn um, og bak við þetta fortjald liggja allar vorar vonir og eftirvæntingar, allar vorar óuppfyltu óskir til ókomna tímans. Ósköp langar oss til að lyfta blæjunni, til að sjá á bak við fortjaldið, til að skyggnast inn í framtíðina, en sem betur fer getum vér það ekki; vér höfum að eins liðna tímann að styðja oss við, hann gefur alla reynsluna, í honum leggjum vér niður fræið, sem vér eigum að skera upp í ókomna tímanum; hann á að gefa oss lærdóma, leiðarvísir og bendingar, sem vér þurfum til þess að leiðbeina oss til þess, að styðjast við og byggja á í hinni ókomnu tíð. Vér erum því nauðbeygðir til þess að líta aftur til þess, að geta komist áfram. Vér verðum að lesa hinn ókomna tíma út úr hinum liðna. Hver sem ekki gerir það, hann má búast við að villast, búast við að rata í ógöngur og torfærur. Það er með oss alla eins og ferðamennina, sem standa við á brautinni, kasta af sér mæðinni um stundarsakir og líta bæði aftur til þess, að sjá hvað langt er til náttstaðar og sjá, hvar þeir skuli náttstað hafa. Þeir eru þreyttir og móðir, þeir eru slæftir og blautir, fötin eru á sumum rifin, skórnir slitnir orðnir, sumir ganga á berum fótunum, hungraðir, fölir og daprir í bragði, á öðrnm sér ekki neitt, það er eins og rykið og hraungrýtið og þyrnarnir hafi ekki snert þá, þeir eru háværir og gáskafullir, þar sem hinir eru þögulir og daprir, þreytulegir, Yfir marga torfæruna hafa þeir farið, þyrnarnir hafa rifið þá, blóðið lagar úr fótum þeirra, en þó eru margir þeirra, einmitt þessara manna, hressir í bragði og hugglaðir, þeir hafa flestir haft þungar byrðar að bera, en ánægjusvipurinn á andliti þeirra og hið einbeitta hugrekki, sem skín úr augum þeirra, sýnir það, að þeir ætla sér að halda áfram og gefur oss vissa von um, að þeir muni náttstað ná eins og hinir og jafnvel fyrr en hinir. Vegurinn er örðugur og brattur, einlægt tekur ein brekkan við á fætur annari; vér þekkjum það allir, sem oft höfum gengið yfir fjöll á Íslandi, Einlægt höldum vér að brekkan upp undan sé hin efsta og siðasta, en þegar upp á hana kemur, þá kemur önnur, þar fyrir ofan, enn þá brattari, enn þá hærri; vér ætlum einlægt

að nú sé það búið, nú séum vér komnir upp á fjallsbrúnina, vér erum að reyna að herða oss að hafa það af, en það er eins og hún aldrei ætli að þrjóta, þessi hin síðasta brekka, sem vér ætlum vera, Vér erum orðnir þreyttir, dauðans þreyttir, oss langar svo til að fleygja oss niður, þó ekki sé nema stundarkorn. Nei, það dugar ekki, hugsum vér, áfram skulum vér halda, upp skulum vér komast áður en vér hvílum oss. En þegar upp á þessa brekkuna er komið, þá kemur aftur önnur ný. Einlægt taka þeir sig upp aftur þessir erfiðleikar, einlægt finst ferðamanninum hann vera uppgefinn, en þó heldur hann einlægt áfram, leggur á hverja brekkuna á fætur annari. Það er rödd í brjósti hans, sem hvíslar að honum, að hann skuli halda áfram, að hann geti hvílt sig þegar upp kemur, að þar fái hann laun fyrir ferðina, þar fái hann uppbætta alla örðugleikana, Þetta, þessi von knýr hann áfram og gefur honum einlægt nýja krafta, einlægt nýjan kjark og dug, hann er kanské tötrum búinn, fölur og því nær lémagna að sjá, en undir brúnum hans tindrar vonin og kjarkurinn. Heill sé hverjum þeim, sem þannig er varið, vér megum reiða oss á það, að hann hefir eitthvað við að styðjast, í honum býr einhver hulinn kraftur, sem heldur honum uppi og hjálpar honum til að sigra þetta alt saman. Vér sjáum það kanské ekki við fyrsta álit, kanské aldrei, menn dylja svo oft sitt eigið hjarta, sinn eigin innri mann, en eins og vér sjáum, að grösin og dýrin geta ekki lifað án næringar, eins er um þetta. Þrótturinn og kjarkurinn og vonin og traustið hlýtur að hafa einhverja hulda uppsprettu, sem það dragi líf og næring af.

Líkt er um oss alla og þessa ferðamenn, hvort heldur vér erum ungir eða gamlir, hraustir eða heilsuveikir, allir erum vér á þessari ferð, alla langar oss til þess að lyfta blæjunni, sem hylur ókomna tímann, vér stöndum við fortjaldið, en getum ekki séð í gegn um það, vér lítum aftur yfir hina förnu leið og ráðum af henni, hvernig vegurinn muni verða sem eftir er, vér sáum hér, en uppskeran er á bak við fortjaldið; vér þurfum að taka með oss veganesti á leiðina allir, hver og einn, annars verðum vér lémagna og munum hníga niður þar sem vér stöndum, eða snúa aftur, og það getum vér ekki.

Hér erum vér nú allir saman komnir yngri sem eldri, og ef vér lítum aftur yfir æfi vora, þá getum vér séð æði margt. Hér stendur við hlið vora gamli maðurinn, með hvíta eða gráírótta skeggið, hvað hefir hann grætt á lífinu? Löng er gangan orðin, yfir klungur og kletta hefir hann gengið, stundum upp á móti, upp örðugar brekkur, þar sem svitinn hefir runnið í lækjum niður af

enni hans, eða þá ofan í móti, niður í inndæla blómskrýdda dali, þar sem niður vatnanna, þar sem kliður söngfuglanna hefir ómað sætt í eyrum hans. Nú er hann hér með oss, bakið er bogið af erfiði, lófinn er harður, fingurnir hálfkreftir af striti. Hann getur frá mörgu sagt, frá því er hann sem ungur drengur lék sér við kné móður sinnar, frá því er foreldrar hans kendu honum að þekkja skapara himins og jarðar, hvernig þau sögðu honum, að í himninum væri sá, er stýrði æfikjörum manna, að það væri hann, er sæi alt, sem í leynum gerist, sá er rannsakaði hjörtun og nýrun, faðirinn elskulegi, sem legði öll börnin sín að brjósti sínu og vefði þau að hjarta sér heitara, föðurlegar, en móðirin sitt hið unga elskaða barn. Í hve margar raunir hefir hann ekki ratað, hversu margar þrautir hefir hann ekki orðið að þola? Það sýna hinar lotnu herðar, hinir hálfkreftu fingur, siggið á hnúunum, en hversu oft hefir hann ekki fundið það, að hann hafði ekki styrkinn frá sjálfum sér, heldur var honum hann gefinn að ofan? Í hversu marga hættuna hefi hann ekki komist á sjó og landi, og hversu oft hefir hann ekki mátt viðurkenna það, að sér hlífði æðri kraftur, hversu oft hefir hann ekki mátt játa, að drottinn, faðirinn á himnum, stóð við hlið hans og studdi hann? Freistingarnar stríddu á hann, syndin lág sem þröskuldur við fætur hans og ógnaði honum við falli, oftlega hrasaði hann og féll, en aftur reisti hann sig á fætur, og hver var það, sem studdi hann þá, sem rétti honum hjálparhönd og fullvissaði hann um, að hann væri enn að nýju velkominn í faðminn föðursins elskulega á hæðum? Hver annar en hann sjálfur, í hverjum vér erum, lifum og hrærumst? Hann, sem lagði í hjarta mannsins óslökkvanlega þrá eftir öðru æðra lífi, eftir sambandinu við hann, hvers ímynd vér erum. Þetta alt saman hefir hann reynt hinn gamli maður, hann hefir stundum ætlað að hníga undir byrði sorgarinnar, tárin hafa runnið af hvörmum hans, brjóstið hefir verið þungt af ekka er hans kærustu vonir hafa brugðist, þegar hann hefir orðið að sjá á bak föður eða móður, ástkærum maka, elskuðum syni eða dóttur, augasteininum sínum, en þá hefir hann, sem þerrar tár ekknanna og föðurleysingjanna einnig þerrað þessi hans tár, einnig sefað þenna hans ekka, aftur gefið honum nýjar gleðilegar vonir. Mörg ein von hans hefir brugðist, marga mæðustundina hefir hann orðið að reyna. Þreyttur af baráttunni við basl og mæðu ár eftir ár við ís og kulda og harðæri, ætlaði hann að flýja í nýtt land, já, nýja álfu, til þess að leita þar betri kjara og minni örðugleika, en þá taka við nýir erfiðleikar, nýjar þrautir. Hver er það,

sem hefir haldið honum uppi, sem hefir eflt hann og styrkt til að berjast í gegn um þetta alt saman? Hver annar en hann, sem stjórnar æfikjörum þjóðanna og einstaklinganna, hann, sem einlægt heldur áfram að skapa og viðhalda hinum óendanlega heimi, hann sem stráir út sólkerfunum um heiminn eins og sáðmaðurinn, sem sáir í akur sinn. Eitthvað hefir hann lært af öllu þessu? Hefir hann lært að þekkja og elska föðurinn á himnum? Hefir hann lært að hlýða röddu hans í brjósti sínu? Hún er búin að hljóma þar svo oft að hann ætti að vera farinn að þekkja hana, Hann er svo oft búinn að reyna hans föðurlegu handleiðslu, hvernig hann barg honum úr hættunni, þegar engin lífsvon var; hvernig hann fylti aftur hjarta hans nýrri gleði og von, þegar honum fanst það vera nær því brostið af harmi og ekka. Hvað er það, sem ætti að fylla hjarta hans, þessa manns? Hvað annað en ást von og þakklæti? Vér eigum hér allir skylt málefni. Marga mæðustundina höfum vér orðið að reyna, marga erviðleikana höfum vér orðið yfir að stíga, oft hefir hugurinn verið truflaður, oft hefir vonin og kjarkurinn verið á förum, oftlega hefir syndin yfirbugað oss; en því að eins erum vér nú hér saman komnir, að náðin drottins hefir reist hinn fallna á fætur aftur. Hann hefir stutt hinn veika og ístöðulitla, og oftlega frelsað oss frá hættum bæði til sálar og líkama. Það hljótum vér allir að játa, er vér lítum yfir liðna æfi vora. En hvað höfum vér svo lært af þessu öllu? Höfum vér lært það eftir alt saman, að þessi faðir vor og skapari sé oss fjarlægur guð, einhverstaðar langt úti í geimnum, uppi í himnanna hæðum? Höfum vér lært það eftir allar þessar þrautir, sem vér höfum í gegnum gengið, og reynt hans föðurlegu hjálp og varðveislu, að hann sé strangur dómari og harður; að hann gefi sumum börnum sínum steina; að hann risti blóðgar arnir á sálum þeirra? Hvort höfum vér lært það eftir alt saman, að hann tortými syndaranum í bræði sinni? Hvort höfum vér lært það, að hjarta föðursins brenni af heiftarloga svo að hann kvelji sín eigin börn, sína eigin mynd, anda af sínum anda, sálir af sinni sál, í eilífum ævarandi vítiskvölum? Aumur er sá maður, sem hefir uppskorið þetta úr öllu sínu lífi; aumlegt, grátlegt er ástand hans. Það liggur við að tárin renni af hvörmum vorum yfir hinu báglega ástandi, yfir hinu ónýta lífi, sem þessir aumingjar hafa lifað. Ríkir sannarlega ríkir erum vér hjá þeim. Þeir mega hafa auð og allsnægtir, þeir mega hafa völd og metorð, þeir mega hafa gnótt af vinum, þeir mega vera tignaðir og í metum hafðir af flokksmönnum sínum, þeir eru þó fátækir, en vér erum ríkir; vér erum ríkir að

transtinu á guðs náð og miskunnseminni, á hans vernd og varðveislu, á hans föðurlegu elsku til sinna barna, vér erum ríkir í þeirri óbilandi trú, að vér séum hans eigin synir og dætur, sem eigi fyrir höndum að taka óendanlegum framförum, uns vér að lokum verðum eitt með honum, vér erum ríkir í trúnni á hið guðdómlega eðli í oss sjálfum.

Hér sitja með oss mæðurnar eldri og yngri, með fullorðna syni og dætur, eða þá með börnin ungu á brjósti sínu. Margt hafa þær einnig orðið gegnum að ganga, því alloft er það, að hagur konunnar er jafnerviður og hagur mannsins, tilfinningar hennar eru miklu viðkvæmari, en karlmannsins, hjarta hennar er eins og opið eða berskjaldað fyrir stingjum og spjótalögum heimsins, mæðu hans og mótlæti. En ef þér, mæður, rifjið upp fyrir yður, frá því þér fyrst munið eftir, þegar þér lékuð yður í húsum yðar elskuðu foreldra, þegar gleðin skein á ennum yðar, brosið og hláturinn lék á vörum yðar, þegar þér í fjöri æskunnar hlupuð og stukkuð um hóla og bala, þegar þér genguð syngjandi að verki yðar og væntuð yður einskis annars, en gleði og farsældar í lífinu, ó, hvað þér voruð þá glaðar og kátar, hversu þökkuðu þér þá ekki guði föður fyrir þetta líf, langt, langt frá hjarta yðar var þá hugmyndin um hann sem hinn stranga dómara, hvers hjarta brynni af heiftarloga yfir syndum yðar, hjörtu yðar voru þá full af gleði, þakklæti og von. En svo fóru aðköstin að koma, ýmsar vonir yðar brugðust, yðar kærustu óskir urðu ekki uppfyltar, sorgin lagðist á sálir yðar, tárin runnu af hvörmum yðar, yður fanst heimur þessi skuggalegur, hjörtu yðar urðu sverði gegnum stungin og yður fannst sem aldrei mundi birta aftur, en þó birti aftur, brosið kom aftur á varir yðar, ánægjan skein aftur af ennum yðar. Drottinn hafði leitt yður í gegnum alla þessa mæðu, alla þessa sorg, hann hafði aftur látið geisla vonarinnar skína í hjörtum yðar, að nýju var albjart í kring um yður. Og svo þar á eftir, þér heiðruðu mæður! munið þér það þegar þér hélduð á hinu fyrsta barni í faðmi yðar, Þrautirnar voru afstaðnar, veikar og máttfarnarláguð þér í rúmi yðar, en þá var barnið lagt að brjósti yðar, það var eins og birti yfir ásjónu yðar, og með svo hýru gleðibrosi horfðuð þér í fyrsta sinni á þetta yðar elskaða afkvæmi. Mér hefir legið við að öfunda blessað barnið af ást móðurinnar. Ég hefi séð ástina skína svo hreina og guðdómlega af ásjónu móðurinnar, og mér hefir komið til hugar, að sjaldan væri nokkur nokkur maður svo nærri guði sínum, sem móðirin í þetta skifti. Hvort ætlið þér ekki, að drottinn hafi leitt yður og stutt yð-

ur í gegn um þetta, eða hvað ætlið þér nú um þetta, yðar unga elskaða barn? Hafið þér þá hugmynd, að faðir yðar á himnum hafi gefið yður það til þess, að hann síðar gæti helt yfir það sinni heiftarreiði? Nei, í þeirri vissu von að hann muni annast það til lífs og sálar felið þér það honum á hönd um tíma og eilífð. En svo koma aðrir tímar, syndin og sjúkdómurinn falla yfir hús yðar, barnið yðar, þetta hið heittelskaða, lág fyrir dauðanum, hljóðandi, veinandi af sárum kvölum, það voru þungar og erviðar vökunætur, svitinn draup af enni yðar, augun voru kanské þur af tárum, en það var sem hjartað ætlaði að springa af harmi og ekka. Móðurástin var ekki megnug þess, að halda því eftir hjá sér. Hér var annar yfirsterkari, dauðinn. Svo urðuð þér að taka það frá yður síðast og leggja það niður í hina dimmu, köldu, ægilegu gröf. En hvað er það, sem þér hafið nú lært af þessu öllu? Er það það eingöngu, að heimurinn sé fullur af böli og harmi og tárum og að hvergi sé nein ljósglæta, er geti lýst í gegnum þetta myrkur? Er ekki traustið yðar á guði sterkara en svo, að þér getið hugsað yður, að þér hafið ef til vill séð þarna barnið yðar í hinsta sinni, ætlið þér, að það sé með nokkru móti hugsanlegt, að drottinn muni gera eilífan aðskilnað milli yðar og barnsins yðar? Ætlið þér að það geti komið fyrir, að guð muni nokkurntíma sleppa hendinni af nokkru sínu barni? Ef svo er, þá sárkenni ég í brjósti um yður. Hvað sem þér segið, hvað sem þér eruð að berjast við, að sannfæra yður um, þá þykist ég viss um það, að þér getið ekki trúað því í hjarta yðar, enda væri það synd á móti föðurnum elskulega, sem hefir annast yður frá vöggunni og alt til þessa, sem hefir staðið hjá yður og haldið yfir yður sínum armlegg á hættunar tíð, sem hefir tekið barnið yðar til sín, lagt það að sínu heilaga hjarta og mun láta það heilsa yður opnum örmum, þegar þér komið yfir í annað líf. Ekkert orð, enginn prestur, engin trúarjátning, engin biflía ætti að geta slitið þessa guðdómlegu tilfinningu úr hjarta móðurinnar, því að hún er á heilagri og dýpri rótum grundvölluð, en alt þetta. Hún er grundvölluð á hinu guðdómlega eðli í manninum.

Já, þér heiðruðu mæður! Oft hefir sorgin níst hjörtu yðar; oft hafa tárin runnið af hvörmum yðar; oft hefir vonin verið að deyja út í brjóstum yðar, oft hafið þér ekki getað séð út úr mæðunni og baslinu, dauðans þreyttar hafið þér stundum með grátbólgin augu lagst til hvílu; en tárin hafa þornað, harmurinn hefir sefast, baslið hefir verið sigrað. En fyrir hvers hjálp? Hvað hafið þér lært af því? Er það ekki svo, að þér vitið og finnið það í hjörtum

yðar, að yfir yður er útréttur armurinn guðdómlegi, sem stjórnar yður og æfikjörum yðar, sem leiðir yður á óendanlega margbreyttum stigum heim til sín í föðurfaðminn. Þér eruð hans dætur, andi af hans anda, sálir af hans sálu; þér eigið fyrir höndum að halda áfram stig af stigi, tröppu af tröppu, á leið fullkomnunarinnar, uns þér verðið eitt með guði, yðar elskulega föður á himnum. Hafið þér lært það, þá eruð þér ríkar, þá getið þér glaðar horft fram á hvað sem yður kann að mæta, þakkað guði fyrir hinn liðna tíma og og mætt hinum komandi í fullu trausti á guðs náð og miskunsemi, á hans vernd og viðhald, á hans föðurlegu forsjá og handleiðslu. Látum ekkert skelfa oss, því guð er með oss.

En þér yngri kynslóð, sem hafið nýbyrjað skeiðið. Fjörið svellur í æðum yðar, vonin býr í brjóstum yðar, erfiðleikarnir stæla yður til enn meiri framkvæmda, lífsgleðin skín af ásjónum yðar, þér eruð lítið farnir að reyna af vonbrigðum lífsins, og þó eigið þér kannske á bak að sjá elskuðum föður, móður, systur eða bróður, eða ef til vill öðrum kærum ástvin. Þér eigið fyrir höndum að læra —að læra það, að treysta guði og gott að iðja; þér eigið fyrir höndum alla þessa reynslu, sem vér, hinir eldri, erum þegar komnir fram hjá; þér eigið fyrir höndum, að reyna það, hvernig faðir vor elskulegur styður hinn veika, hughreystir hinn ístöðulitla, hvernig hann hjálpar öllum þeim, sem honum treysta, hvernig hann úthellir blessun sinni yfir löndin og þjóðirnar og einstaklingana, hvernig hann er vor allra elskulegur, guðdómlegur faðir, og hvernig þér eruð hans eigin synir og dætur, gædd guðdómlegu eðli, og því eigið þér að keppa eftir því að verða eitt með honum.

Já, þér unga kynslóð. Á alla, en einkum á yður, skora ég, gangið fram og liggið ekki á liði yðar. Gangið fram í guðs nafni og á hans vegum, eflið hans dýrkun, eflið sannleikann, standið girtir brynju sannleikans. Útbreiðið hugmyndina um hinn kærleiksríka föður allra manna, standið á móti hverju því, sem óvirðir skapara yðar; því að eins verðið þér sjálfir betri og kærleiksríkari, að þér hafið háleitar og veglegar hugmyndir um skapara yðar. Standið á móti öllu því, sem rýrir hans heilögu hátign, það er nokkuð sem þér ekki megið þola. Þér hin unga kynslóð, yðar er framtíðin, yður byrjar starfið, á yðar herðum hvílir hin komandi tíð, á yðar herðum hvílir það, hvort trúin á að niðurlægja skaparann, niðurlægja og svívirða yður sjálfa, eða leiða yður upp til ljóssins og kærleikans, leiða yður í hina útbreiddu faðma föðursins á hæðum. Heill sé yður ef þér gegnið köllun yðar. Raustin kallar til yðar og segir: fram!

fram! nú má enginn á liði sínu liggja sem ber ást til guðs og manna í brjósti sér.



Allir hinir trúuðu konungar eru í ríki himnanna, allir vantrúuðu heimspekingarnir í kvölunum. Allir ofsóknarmennirnir sofa í friði, og jarðneskar leyfar þeirra sem brendu bræður sína, hvíla í vígðum reitum. Bókasöfn heimsins mundu naumast rúma öll nöfn ræfla þeirra, sem fylt hafa heiminn ofbeldi og manndrápum til þess, að verja ritninguna og trúna; en alt fyrir það eiga þeir að hafa dáið dauða hinna réttlátu, og enginn klerkur reynir til þess að lýsa skelfing þeirra og ótta, samviskubiti og hrylling, sem heltók sálir þeirra á seinustu augnablikum lífsins. Þessir menn höfðu aldrei efast — þeir höfðu aldrei hugsað — þeim var eins náttúrlegt að taka trúarjátningarnar gildar eins og að fara í sokkana sína. Þeir voru engir vantrúarmenn, gátu ekki verið það. Þeir höfðu verið skírðir, þeir höfðu ekki neitað guðdómi Krists — þeir höfdu neytt hinnar heilögu kvöldmáltíðar. Þeir heiðruðu prestana, þeir játuðu að Kristur hefði tvö eðli og tvenskonar vilja. Þeir játuðu að heilagur andi væri "útgenginn," þeir játuðu, að samkvæmt margföldunartöflu himnaríkis, væri einu sinni einn þrír og þrisvar einn væri einn, og svo hlóðst alt þetta sem dúnsvæfill undir höfuð þeim, og breiddist yfir þá og huldi þá blæju friðarins. (INGERSOLL.)

---

Það eru margir af kaupendum Dagsbrúnar, bæði hér í bænum og víðsvegar í sveitum úti, sem ekki hafa enn sent oss andvirði 3. árgangs (1895). Með mestu vinsemd vildum vér óska, að þessir kaupendur sendu oss það, sem þeir skulda við fyrsta tækifæri. Það er lítil upphæð í hverjum stað, en "margt smátt gerir eitt stórt," og samanlagt munar oss mikið um það, sem vér eigum útistandandi hjá kaupendum.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: MAGNÚS J. SKAPTASON.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður: MAGNÚS PÉTURSSON.
S.-W. Corner Ross Ave. & Nena Str.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.